WIKIPEDIA

# Kvenska

**Kvenska** (*kvääni* eða *kväänin kieli*; *kainu* eða *kainun kieli*) er finnsk mállýska töluð af Kvenum. Af sögulegum og pólitískum ástæðum var kvenska viðurkennd sem minnihlutamál árið 2005 undir Evrópusáttmálanum um svæðisbundin tungumál og tungumál minnihlutahópa. Frá málfræðilegum sjónarhorni er hún þó talin gagnkvæmt skiljanleg mállýska af finnsku og er svipuð öðrum mállýskum töluðum í Meänmaa-dal í Svíþjóð.

Á kvensku eru mörg tökuorð úr norsku, svo sem *tyskäläinen* „þýskur“ (*saksalainen* á öðrum mállýskum). Mikið er um gömul finnsk orð sem eru ekki lengur notuð á öðrum mállýskum.

Móðurmálshafar kvensku eru milli 1.500 og 10.000 manns en flestir þeirra eru yfir 60 ára aldri. Þessi hópur notar kvensku sem aðalsamskiptamál og talar ekkert annað tungumál. Talendur á miðaldri hafa oft slakari tök á málinu en yngsta kynslóðin hefur litla sem enga færni á kvensku. Í einum skóla í Børselv er börnum boðið tækifæri til að læra kvensku.

| Kvenska<br>*kvääni, kainu* | |
|---|---|
| **Málsvæði** | Noregur |
| **Fjöldi málhafa** | 1.500–10.000 (2005) |
| **Ætt** | Úralskt<br>Finnsk-úgrískt<br>Fennískt<br>Finnskt<br>**Kvenska** |
| **Viðurkennt minnihlutamál** | Noregur |
| **Tungumálakóðar** | |
| **ISO 639-2** | fiu |
| **ISO 639-3** | fkv |

**ATH:** Þessi grein gæti innihaldið hljóðfræðitákn úr alþjóðlega hljóðstafrófinu í Unicode.



*Þessi tungumálagrein er stubbur. Þú getur hjálpað til með því að bæta við greinina (https://is.wikipedia.org/w/index.php?title=Kvenska&veaction=edit).*